# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9. árg. WINNIPEG, OKTÓBER 1894. Nr. 8.

## Davíðs sálmr 127.

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

Lag: Heyr börn þín, guð faðir, sem biðja þig nú.

1. Til hvers er að byggja sér hús eða höll,
ef hann eigi byggir, sem reist hefir fjöll?
Ef herrann ei byggir, þá hrynr það valt,
ef hann byggir með oss, það standast mun allt.
Ó, guð, að oss hygg,
með oss húsin vor bygg.

2. Til hvers er að vaka og verja sinn stað?
Ef vakir ei drottinn, þá misheppnast það.
Ef hann eigi vakir, fær voðinn oss mætt;
en vaki hann með oss, við því er ei hætt.
Ó, að þér oss tak,
yfir öllum oss vak.

3. Til hvers er að erja með áhyggju' og þraut,
ef ei lætr guð falla blessan í skaut?
Til hvers er með víli að vinna sér brauð?
Án víls bœtir drottinn úr aumstaddra nauð.
Ó, bœt vora þörf,
öll vor blessa þú störf.

4. Til hvers eru börnin, hið fegrsta fé,
sem faðir vor himneskr lætr í té,
ef guð eigi blessar þau blómin vor smá?
en blessi þau drottinn, þau sæl verða þá.
Vér felum vor börn
þinni blessan og vörn.

## Úr heimi vísindanna.

Eftir séra *Friðrik J. Bergmann.*

Í hinum vísindalega heimi er, eins og kunnugt er, margt ágreiningsefnið. Hjá því verðr eigi komizt. Skilningr mannsins er svo afarmiklum takmörkum háðr. Hann er ávallt að þreifa fyrir sér, til þess að geta komizt í gegnum þokur og ráðgátur. Og svo hrópa menn þá hver til annars: Hér er leiðin! þarna er leiðin! Svo eru menn þá líka ósáttir um, hverja leiðina sé bezt að fara.

Þegar hinn skarpskyggni enski náttúrufrœðingr *Darwin* hafði fundið nýjar og betri sannanir fyrir fullkomnunarlögmálinu en nokkrum hafði áðr tekizt, var hrópað í öllum áttum: Hér er leiðin! þarna sést gegnum þokuna! Nú er lífsgátan bráðum ráðin! Síðan hefir, eins og kunnugt er, stríðið í heimi vísindanna snúizt utan um Darwins-tilgátuna. Hugsun hins eina manns hefir nú í meira en mannsaldr verið þungamiðja allrar hugsunar í náttúruvísindunum. Helztu vísindamennirnir, flestir þeirra að minnsta kosti, tóku hugmyndina að sér, og margir þeirra berjast fyrir henni enn. Eins og eg hefi áðr bent á, eru þeir að verða fleiri og fleiri, sem farnir eru að kólna. Og þótt allir viðrkenni hinar stórkostlegu framfarir í náttúruvísindunum, eru menn þó meir og meir að komast að þeirri niðrstöðu, að vér séum eiginlega engu nær en áðr, þar sem um úrlausn lífsgátunnar er að rœða. Einkum á þetta sér stað á Þýzkalandi, — vísindalandinu mikla.

Það hefir oft verið minnzt á hinn fræga enska vísindamann *Huxley*, — þann mann, er mest hefir ritað á enska tungu til að verja kenning Darwins og varið hefir öllu lífi sínu og hœfileikum til að leita að vísindalegum rökum henni til stuðn-

ings. þess hefir þá oft verið getið um leið, hve ómjúkum höndum hann fer um mótstöðumenn sína, hve óumræðilega djúpa fyrirlitning honum er gjarnt til að sýna öllum þeim, er hafa haft í sér kjark og dirfsku til að andmæla honum. Hinn vísindalegi hroki hans, þessa gáfaða og mikilhæfa manns, er þannig orðinn að orðtæki.

En á þýzkalandi er annar náttúrufræðingr, álíka frægr og Huxley á Englandi, *Haeckel* að nafni. Hann er foringi Darwins-áhangenda þar. Og hafi menn ástæðu til að kvarta yfir rithætti Huxleys, þá er sú ástæða margfallt sterkari þar sem þjóðverjinn á hlut að máli. Honum er naumast unnt að minnast svo á mótstöðumenn sína, að hann velji þeim ekki einhver hin allra-nöprustu háðungaryrði. Og sameiginlegt einkenni fyrir þá báða er ákaflega bitrt hatr gegn kristindóminum. Flokkr mótstöðumanna *Haeckels* fer sívaxandi, og nýlega hefir hann, eins og oftar áðr, orðið fyrir töluverðum sektum fyrir ritrhátt sinn. Hinir frægustu meðal andmælenda hans eru: *His*, *Semper*, *Claus*, *Bastian*, *Brandt*, *Virchow* o. fl. Allir þessir menn hafa nú hin síðari árin hafið sterkustu andmæli gegn stefnu hans í vísindunum. Hvað eftir annað hafa þeir lýst yfir því, að margar hinna vísindalegu staðhæfinga hans væri blátt áfram glæfralegar (*schwindelhaft*). þær væru vísindalegar „dogmur", en engin vísindi.

Í ritgjörð minni um *umburðarlyndi í trúarefnum* (Aldamót II), hefi eg talað nokkuð um hatrið gegn *dogmum* kirkjunnar. þegar andstæðingar hennar ráðast á hana, taka þeir vanalega *dogmur* hennar fyrir. Ef kirkjan væri laus við allar *dogmur*, væri hún vel hafandi. En af því að hún á að hafa þvílíkt kynstr af *dogmum*, er hún óalandi og óferjandi. Eg er viss um menn kannast við þetta. það hefir svo oft verið látið klingja í eyrum vorum.

Hvað er þá *dogma*? Eitt einstakt trúaratriði eins og t. d. sköpun heimsins, friðþægingin, upprisa framliðinna, eilíft líf o. s. frv. þessi trúaratriði kristinna manna eru talin upp í hinni postullegu trúarjátning; allir vita, hver þau eru. *Dogmurnar* eru því efni og innihald trúar vorrar. Ef vér hefðum engar *dogmur*, hefðum vér heldr ekki neina trú. það er eðli trúar-

innar að halda sér við einhver ákveðin trúaratriði og segja: þessu trúi eg!

Aftr er það eðli vísindanna að hafa engar *dogmur*. Eins og kirkjan syndgaði gegn innsta eðli sínu, ef hún varpaði *dogmum* sínum fyrir borð, eins gjöra vísindin sig sek í hinni stœrstu synd, ef þau hafa nokkrar *dogmur*. það er eðli trúarinnar að segja: þessu trúi eg; að vísu get eg ekki sannað það á sama hátt og sanna má að eitthvert reikningsdœmi sé rétt, en eg trúi því. það er eðli vísindanna að segja: þetta vitum við, fyrir þessu höfum við órækar sannanir. En svo fara þau ekki lengra, — mega það ekki. Ef þau koma með fullyrðingar um þá hluti, sem þeim er um megn að sanna, eru þau farin að fjalla um efni, sem þau vita ekki um. þau eru þá farin að setja *dogmur* í stað vísindanna.

Um þetta eru menn nú farnir að bregða náttúruvísindunum mjög sterklega. Menn eins og Huxley og Haeckel, sem valið hafa *dogmum* kirkjunnar stœrstu fyrirlitningarorð, fá nú að heyra það hvaðanæva, að þeir sé að leiða eitthvað svipað inn í vísindin eins og það, er þeir hafa mest hallmælt kirkjunni fyrir, — *dogmur*, ósannanleg trúaratriði. það er all-merkilegt teikn tímans, þetta. Hverjar eru þá þessar vísindalegu *dogmur* eða trúaratriði? Eg ætla að nefna hér eitt dœmi.

Efnið er eilíft. Um það segir Haeckel: Vér megum til með að álíta efnið eilíft; annars værum vér neyddir til að gefa kraftaverkum hinnar yfirnáttúrlegu sköpunarsögu samþykki vort. Með öðrum orðum: Til þess að komast hjá því að segja: guð hefir skapað heiminn, eða: upphaf allra hluta er oss óskiljanlegt, segir hann og þeir, sem honum fylgja: efnið er eilíft. En það er ekkert annað en að setja eitt *dogma*, trúaratriði, í stað annars. Og af þessu eina vísindalega trúaratriði æxlast svo ótal önnur. Eitt um uppruna hreifingarinnar. Annað um uppruna lífsins. þriðja um niðrröðun náttúrunnar. Fjórða um meðvitundina, o. s. frv.

Til þess nú að sýna, hve mjög ósamdóma hinir gætnari meðal vísindamannanna eru Haeckel og öllum þeim, er þykjast geta skýrt öll leyndarmál tilverunnar með heimspeki þeirri, er þeir byggja upp á grundvelli Darwins-tilgátunnar, ætla eg hér að tilfœra nokkra vitnisburði frægra þýzkra vísindamanna,

og tek eg þá eftir mjög merku þýzku tímariti, þar sem vitnað er til bókanna, sem hver höfundr hefir ritað. Skal eg láta þess getið um leið, að það er ekki vegna neinnar hollustu við kristindóminn, að þessir vísindamenn tala þannig, því þeir eru víst flestallir úr flokki vantrúaðra manna, heldr tala þeir þannig í nafni vísindanna, sem þeir vilja ekki blanda neinum kreddum saman við.

*Wilhelm Strecker*: — „Materialismusinn[1] neitar því ekki, að þau atriði, sem vér þekkjum („þeir eiginleikar efnanna, sem oss eru kunnir"), eru ónóg til að skýra lífsstarfsemina. Í sambandi við jafnvel hið einfaldasta dýra- og jurta-líf er ýmislegt, sem oss er eigi unnt að gjöra oss grein fyrir í ljósi þess náttúrulögmáls, er vér þekkjum."

*Jul. Robert Mayer* segir, þar sem hann er að tala um þetta sama: „Í þessu efni hljótum vér að játa fullkomið þekkingarleysi."

*Gustav Bischoff*: — „Á hvern hátt fyrstu jurtirnar á jörðinni hafa til orðið, — um það er oss jafn-ókunnugt og um hina fyrstu byrjun allra hluta."

Frampartana í líkömum dýra og jurta nefna náttúrufræðingarnir „cel-lur" eða hólf; allir líkamir dýra og jurta hafa óteljandi þvílík hólf. Veggirnir milli hólfanna eru himnur, en innan í hverju hólfi er lífkvoðukökkrinn (*protoplasma*). Myndar hver þeirra lífseining út af fyrir sig, er hver hefir sitt ætlunarverk, en allar starfa þær í sameining. Þetta er lífið á lægsta stigi, í þess frumlegustu mynd, sem Haeckel heldr að til hafi orðið svona af sjálfu sér. Um þetta segir bakteríufræðingrinn *Cohn*: „Vísindunum er eigi unnt að gefa spurningunni: hvernig varð fyrsta framhólfið til? nokkra úrlausn."

*Johannes Hanstein* hefir samið ritgjörð eina all-merkilega um lífkvoðukökkinn (*protoplasma*). Í ritgjörð þessari sýnir hann fram á, að þótt efnafræðinni heppnaðist einhvern tíma að setja saman lífkvoðukökk með öllum efnafræðislegum og líkamlegum eiginleikum, myndi œxlunarhvötina, máttinn til sjálfstœðrar starfsemi, vanta til þess hann jafnaðist á við hinn *lifanda* lífkvoðukökk. „Frumspírurnar, eins og líka efnið

1) Þá lífsskoðun, sem *materialismus* nefnist, hefi eg reynt að skýra í fyrirlestri mínum um *lífsskoðanir*. Aldamót I.

sjálft, hljóta því að vera myndaðr af einhverri frumfœðingar- eða frumsköpunar-starfsemi."

*Moritz Willkomm* segir í rœðu sinni „um takmörk jurta og dýraríkisins": „það hlýtr að hafa verið og vera enn til einhver máttr, eilífr og óendanlegr, sem skapaði bæði efnið og náttúruöflin og hin eilífu, óbreytilegu lögmál, sem öllu stjórna í ríki hinnar dauðu og lifandi náttúru, — sem lét hinn fyrsta lífkvoðukökk fram koma á jörð vorri, þegar hún hafði náð því framfarastigi, að lífseiningar mætti á henni lifa, og gaf honum lífið og um leið máttinn til sjálfstœðrar starfsemi og á þann hátt lagði grundvöllinn að ríki lífseininganna."

*Lorenz Fischer*: „Án þess að viðrkenna almáttuga, skapandi veru, er eigi unnt að skýra frumorsök lífsins, því allar mögulegar tilraunir, á öðrum grundvelli byggðar, hafa reynzt ónógar. þetta er líka krafa lögbundinnar hugsunar, sem ekki er í neinni mótsögn við nokkurt atriði reynslunnar eða náttúruvísindanna."

þessir og aðrir eins vísindamenn taka ekki undir með *Haeckel*, þegar hann slengir út frá sér þeirri vísindalegu kreddu, að efnið sé eilíft, og að úr dauðu efninu hafi allt líf œxlazt af sjálfu sér, —til þess að komast hjá kraftaverkum yfirnáttúrlegrar sköpunar!

Tvær bœkr hafa nýlega komið út á þýzkalandi, þar sem ráðizt er á hina „materialistisku" lífsskoðun Darwinistanna. Önnur þeirra er eftir Dr. *Dennert* í *Godesburg* og kallast hún: *Darwinismusinn og áhrif hans á þjóðlífshreifingarnar*. Aðalefni bókarinnar er að gjöra grein fyrir því, hvernig hinir pólitisku byltingamenn (*sócíal-demokratar*) nota kenningar Darwinistanna gegn kristindóminum í sinni pólitisku baráttu. þetta segir höfundrinn að takist svo vel, af því vísindamennirnir sjálfir hafi stundum hausavíxl á niðrstöðuatriðum vísindanna, þegar um kristindóminn er að rœða. Hann ber þar sakir fyrst og fremst á náttúrufrœðinginn Haeckel og því næst á grasafræðinginn *Dodel-Port*, mann með miklu minni vísindalegum hœfileikum, en hinum jafn-frekr í stjórnlausum ákafa gegn kristindóminum, og orð hans þess vegna oft notuð af Sócíalistum sem vísindaleg heimild.

Samkvæmt kenningum Sócíalista á markmiðið fyrir

fullkomnun mannkynsins að vera fólgið í afnámi eignaréttarins og því, að þjóðfélagið taki öll framleiðslufœri í sína hönd. Allir einstaklingarnir eiga þannig að lifa upp á kostnað hins opinbera. En hvað þýðir það? Allri baráttu fyrir tilverunni verðr þá lokið. Og samt sem áðr á þessi barátta fyrir tilverunni, — hin þjóðfélagslega barátta milli hagsmuna og stétta, að vera eina leiðin, sem liggr að hinu göfuga takmarki fullkomins jafnaðar og friðar. Þetta alkunna lag Darwinistanna: „baráttan fyrir tilverunni" á að vera blásið á lúðrana, meðan hersveitir mannanna eru að streitast upp að hinu háa takmarki, og þó stendr þetta takmark sjálft í fullkomnustu mótsögn við þessa aðalkenning Darwinistanna. „Darwinska kenningin stendr eða fellr með hinum tveimr hornsúlum sínum: baráttunni fyrir tilverunni og úrvalning náttúrunnar; báðar þessar frumorsakir eiga að hafa komið þeirri fullkomnun til leiðar, sem lætr manninn verða til úr dýrinu og gjörir afskifti skaparans ónauðsynleg. En þá verða auðvitað þessi eilífu, óbreytilegu náttúrulögmál lengr að hafa gildi fyrir manninn, og þá er eigi unnt að láta þau hætta. Vér heyrum það hvað eftir annað: að brjóta náttúrulögmálið er ómögulegt, annars væri kraftaverkið til! Nú er ekkert kraftaverk til, en þá hlýtr líka þessi von Sócíalistanna um að baráttan fyrir tilverunni muni hætta í mannlífinu að vera eintómt tál. En án þessa kraftaverks verðr kenning Sócialistanna að eins fagr draumr og upp af þeim draumi munu œsingamenn þeirra einhvern tíma með skelfing vakna."

Hin önnur bók, sem út hefir komið um þetta efni, snýr sér beinlínis gegn Haeckel og náttúruheimsspeki hans. Höfundrinn (*súperintendent Brausch*), sem er bœjarbróðir hans (*Jena*), segir, að grundvallaratriði þessarar heimspeki sé gagnstœð heilbrigðri hugsunarfrœði. Hann sýnir fram á, hvernig þessi erki-*materíalisti*, er hræðist öll kraftaverk eins og heitan eldinn, hafi framsett heilan hóp af setningum og staðhœfingum, er standi í óleysanlegri mótsögn við hinn eðlilega gang hlutanna og sé þannig miklu yfirnáttúrlegri en trúaratriði biblíunnar og kristindómsins. Hinn ákafasti mótstöðumaðr trúarinnar á hinn persónulega guð opinberunarinnar kemr hér fyrir sem sá, er með taumlausu ímyndunarafli býr til ekki að eins eina guðlega

frumorsök, heldr margar. Hugmynd hans um alheimsefnið, er liggi til grundvallar fyrir öllu í ríki náttúrunnar og komi að nokkru leyti fyrir í ljósvakanum og búi að nokkru leyti í líkamsheildum frumagnanna, er í raun og veru ekki annað en guðleg frumorsök, sem ímyndunarafl hans býr til og lætr síðan klofna sundr í tvö guðleg veldi. „Hefir hann þá ekki tvo guðdóma eins og Persar?“ spyr höfundrinn. „En þessir guðir eru undarlegs eðlis. Af loftguðinum er ekki nema nokkur partr eftir; því mikinn hluta af sér hefir hann látið ganga upp í sköpunarefni, þar sem hann þéttist saman og varð að líkamsheildum. Án þess Haeckel hafi að gætt, hefir á þennan hátt virkilegt kraftaverk átt sér stað. Því um leið og frumagnir loftsins urðu að frumögnum fastra líkama, hefir eðli þeirra fullkomlega umskapazt. Í samanburði við þetta er kraftaverkið í Kana að eins smáræði. Af því að frumagnirnar hafa þjappazt svona saman, eru hrindingaröfl þeirra orðin að aðdráttaröflum og á þennan hátt hefir alheimsvélin heppilega komizt á stað!“

En ekki er honum unnt að skýra tilorðning hlutanna, þótt hann hafi fundið upp þennan frumguð, alheimsefnið, heldr má hann til með að finna upp fleiri. Til þess að skýra, hvernig hin dauða náttúra hafi til orðið, verðr sá guð, sem hann nefnir *skyldleik efnanna*, að hjálpa honum. Og til þess að skýra myndun hinnar lifandi náttúru, sameining lífkvoðukekkjanna, þarf hann á *kolafrumefninu* að halda. „Hve eftirtektavert, að hinn guðlausi náttúrufrœðingr þarf svo oft á *skapanda* guði að halda í heimsmyndunarfrœði sinni, og þó eftirtektaverðara, að hann, *einingar*-maðrinn (*Monistinn*), hefir þegar þrjá *guði*.“.

En hann lætr eigi hér við sitja. Þegar hann fer að gjöra sér grein fyrir hinu andlega lífi mannanna, verðr hann að láta „guð hinn sanna, fagra og góða“ skýra svo ótal margt, sem annars yrði honum ráðgáta. Að síðustu bendir höfundrinn á, að hinum gáfaða og andríka heimspeking, með hið sterka ímyndunarafl og heita hjarta, sé eigi unnt að halda sér innan hinna þröngu takmarka „sinnar efnistómu einingar-trúar“, en að hann oft og tíðum eins og ósjálfrátt bendi til œðri og fegurri lífsskoðunar með orðatiltœkjum sínum, þrátt fyrir allan ákafa hans gegn „hinni sjúku og ónáttúrlegu guðfrœði, sem láti hinn dýrðlega, jarðneska undraheim verða mönnunum leiðinlegan

eymdardal". Hér er átt við kenninguna um frumagnasálina, alheimssálina, sem að því leyti er göfugri, að hún gefr andanum meiri viðrkenning, en er að öðru leyti full af óleysanlegum mótsögnum, eins og flest önnur börn hins heimspekilega ímyndunarafls.

Það er vonanda, að líða fari nær og nær þeim tíma, þegar takmörkin milli trúarinnar og vísindanna verða fyllilega viðrkennd, og þessi tvö stórveldi í andans heimi fái að búa saman í friði og spekt. Eg enda mál mitt í þetta sinn með því að benda á orð hins íslenzka náttúrufræðings, dr. *Þorvaldar Thóroddsen*, í upphafi ritgjörðarinnar „um uppruna dýrategunda og jurta" í 8. árgangi Tímarits Bókmenntafélagsins (bls. 285—286):

„Vér getum rannsakað lífið og störf þess, eins og þau koma fram í óteljandi myndum; vér getum gjört oss hugmynd um hlutfallið milli hinna einstöku líffœra og um verknað þeirra; vér getum hugsað oss hina ósýnilegu þræði, er tengja saman allar lifandi verur á vorri jörð; en — hvað líf vort og sjálfsmeðvitund er í sjálfu sér, það vitum vér ekki. Vér sjáum, hvernig þyngdarlögmálið kemr fram sem algild regla í alheiminum, en vitum þó ekki, hvað það er; svo er um alla hluti, að vér komum loks að takmörkum, sem andi vor getr eigi yfir stigið; af því maðrinn er í náttúrunni og við hana bundinn, geta mannleg vísindi aldrei gægzt út fyrir náttúruna og séð orsakir hennar með reynslu og tilraunum; þar fyrir utan tekr trúin við. Trú og vísindi geta því, eftir sínu innsta eðli, aldrei komizt í bága hvort við annað. Vísindin fást eingöngu við það, sem menn geta komizt að með reynslu, rannsókn og tilraunum, en skifta sér ekki af því, sem liggr þar fyrir utan. Alþýða manna blandar oft saman reynslu og trú og gáir ekki að takmörkunum, sem þar eru á milli."

---

## Friðþægingin.

Fyrirlestr eftir *Fredirik Petersen*, prófessor í Kristjaníu.

---

Trú kristinna manna á friðþæginguna er eins og trúin á guðdóm Krists komin til þeirra ofan að. Mannshjartað hefir ekki skapað hana sjálft, þótt það hafi veitt henni viðtöku og

hún hafi þar fest rœtr, einatt svo djúpar rœtr, að hún verðr eigi upprœtt þaðan nema hjartað sé slitið sundr.

Mennirnir höfðu ávallt fundið til þess, að þeim var þörf á að verða friðþægðir við guð. það sýnir trúarbragðasagan. þeir fundu til þess, að þeir veittu ekki guði þá hlýðni, sem skylda stóð til, og að guð fyrir þá sök var þeim reiðr. þeir urðu að hugsa um það, að komast í sátt við guð.

Tvær aðaltilfinningar hafa þannig verið ráðandi. Önnur þeirra er meðvitundin um guð og þar með fylgjandi tilfinning fyrir því, að hann væri hinn persónulegi, voldugi, heilagi, hátt upphafni og vandláti drottinn. Eg, drottinn, guð þinn, er vandlátr guð, sem umbuna eins og konungr, en hegni líka harðlega. það er önnur tilfinningin. Hin tilfinningin er út af syndinni. Syndin er óhlýðni við guð og brot á móti boðum hans. Boðorðabrot og skylda og lögmál og réttr benda allt í sömu áttina. En óhlýðni við guð er synd. þetta gjörir syndina svo þunga á metunum og hættulega. Um öll önnur brot eigum vér við mennina að eiga eða sjálfa oss; en þegar um syndina er að rœða, þá er þar við guð að eiga. Og undan hendi hins lifanda guðs fær ekkert afl hjálpað oss. þótt vér gætum látið allt annað hafa sinn gang án þess að skifta oss af því, þá getum vér þó ekki látið syndina eiga sig; við guð verðum vér að sjá til að komast í sátt.

Svona hefir tilfinning mannanna staðið og svona hafa þeir hugsað svo langt aftr í tímann sem augað eygir.

Og þeir hafa gjört allt, sem þeim var unnt eða þeim hugsaðist til þess að komast í sátt við guð. þeir hafa verið hræddir við guð. þeir hafa fundið upp á líklegu og ólíklegu til þess að losa sig við þá hræðslu. þeir hafa vegsamað hann og sungið honum lof; þeir hafa fœrt honum óteljandi gjafir; þeir hafa leitazt við að lifa svo lastvöru lífi og í svo mikilli samhljóðan við boð hans sem þeim var frekast unnt; þeir hafa leitazt við að bœta úr því, sem á brast, með því í ýmsum greinum að gjöra meira en það, er boðið var, gjört honum heit, sem þeir skyldi gjalda honum, jafnvel líflátið börn sín og gefið honum þau að fórn; og sjálfum sér hafa þeir meinlætt, lamið sig og látið húðstrýkja, varpað frá sér öllum gœðum og þægindum lífsins til þess að lifa fullkomnu píslalífi og þjáninga — allt saman til

þess að þurfa ekki að vera hræddir við guð. Mennirnir vildu friðþægja guð, vildu komast í sátt við hann, vissu, að það var lífsnauðsyn fyrir sig.

Kom þetta allt þá að nokkru gagni?

Vér viljum nefna einn mann, sem enginn fær neitað að verið hafi með lifandi siðgœðistilfinning og jafnframt með ríku trúareðli. Það var Páll postuli. Hann lítr út yfir mannheiminn og sér hann greinilega undir guðs reiði. Hefði það tekizt að komast í sátt við guð, þá hefði öðruvísi litið út. Mennirnir hafa víst ekki heldr haft mikla von um að sáttatilraunir sínar myndi heppnast; heiðingjarnir voru alveg vonlausir um það, og Gyðingar höfðu ekki heldr þessa von. Ef einhverjum einstökum kann að hafa sýnzt, að þetta hefði tekizt eða kynni að takast, þá má víst hœglega sýna, að sú ímyndan hefir stafað af trúarlegri og siðferðislegri sljóvgan. Mennirnir yfir höfuð vissu vel, að þeir höfðu engu áorkað, og sú almenna meðvitund var eitt af því marga, sem undir niðri studdi að hinni sigrsælu útbreiðslu kristindómsins.

Og hvernig stóð þá á því, að þeir höfðu engu áorkað? Það var auðvitað fyrir þá sök, að allt, sem reynt var, var ónógt, eða réttara sagt af því að með því var skotið fram hjá markinu. Heitin og gjafirnar,— hvaða gagn gat guði að þeim verið? Honum tilheyra öll dýrin á mörkinni og dýrin á fjöllunum þúsundum saman (Sálm. 50,10). Og að því er það snertir að hlýða boðum hans, þá verðr ekki annað sagt en það takist mjög bágglega, jafnvel þegar bezt er. Og barnafórninar og meinlætalifnaðrinn — hvaða ánœgju skyldi hann geta haft af slíku? Getr nokkuð það verið til, sem ætti að geta bœtt guði það, að maðrinn er frá honum fallinn og hefir risið upp á móti vilja hans?

Hefði manninum þrátt fyrir fallið verið unnt að forðast siðferðislega spilling, hefði syndin ekki haft neinar siðferðislegar afleiðingar, hefði maðrinn í innsta eðli sínu getað haldizt góðr og heilagr, og lagt sig svo undir dauðann af fúsu geði út af meðvitundinni um sekt sína, og þannig, með því af sjálfum sér að þola dauðann, horfið aftr og á ný komizt í hið upphaflega rétta samband við guð, — það hefði verið annað mál.

En hvorki er þetta í samhljóðan við siðferðislögmálið, sem liggr til grundvallar fyrir mannlegu lífi, né heldr fer það saman

við virkilegleikann, og getr það ekki heldr. Eins og nú standa sakir getr maðrinn reyndar þolað dauðann, og hann hlýtr að þola hann. En það út af fyrir sig útvegar honum enga friðþæging. Dauðinn gjörir að eins enda á hinu jarðneska lífi mannsins. En það að deyja kemr manninum ekki í sátt við guð, né heldr tekr það frá honum hræðsluna við guð; þvert á móti gjörir það að eins hræðsluna eilífa.

Mennirnir hafa gjört allt, sem þeir gátu upphugsað. En reiði guðs hélzt við og varð fyrir bragðið æ þyngri og þyngri. Það, að þessi hefir reyndin á orðið, sannar fyrir hverjum hugsanda manni, að allar þessar mannlegu friðþægingartilraunir hafa verið algjörlega árangrslausar. En það sannar líka nokkuð annað; það sannar, að guð vill friðþægðr verða. Ekkert annað fær tekið reiðina burt.

Þá sá guð sér sjálfr fyrir fórnarlambi. Hann sendi sinn eigin son. Sonrinn varð maðr; sonrinn lifði fullkomnu mannlífi án syndar, og sonrinn gaf hið fullkomna, heilaga og góða líf sitt í dauðann. Þessi friðþægingarfórn kom mönnunum í sátt við guð og tók burt hræðsluna við guð, og með henni sparaði guð líf mannanna.

Upp frá þeirri stund er reiði guðs horfin frá þeim, sem þegið hafa þessa sáttagjörð. Og það hefir sett sérstakan stimpil á allan þann hluta mannkynsins, þar sem þessir menn hafa notið sín og verið salt heimsins. Beri menn saman ástandið, þar sem friðþæging Krists hefir náð valdi á hjörtum manna og er orðin undirstaða undir lífinu, við ástandið, þar sem menn eru ósnortnir af friðþægingunni, og munu menn hljóta að játa, að þetta er sannleikr. Með hinum friðþægjanda fórnardauða Jesú Krists, guðs sonar, hefir reiði guðs horfið; mennirnir hafa komizt í sátt við guð.

Þetta er vitnisburðr sögunnar. — En þegar eitthvað kemr þannig virkilega fram í sögunni, þá hlýtr það að eiga rót sína að rekja til skynsemdarlögmáls þess, er tilverunni ræðr. Sé einhverjir þeir til, sem kalla þetta óskynsamlegt, þá er sökin hjá þeim. Þeir hafa ekki kannað djúp hins virkilega lífs, heldr hafa í skoðan sinni að eins fest sig við yfirborðið.

Þannig og að því er þetta atriði snertir. Margir telja friðþæginguna óskynsamlega. Hún á ekki að geta samrímzt nú-

tíðarinnar vísindum og nútíðarinnar anda. Jafnvel í huga margra kristinna manna á vorri tíð virðist lítið gjört úr friðþægingunni. Þeir kalla hana ekki beinlínis óskynsamlega; en meginrœtr hennar eru, að því er virðist, að visna upp hjá þeim. Nafninu er haldið, en hún er útskýrð á þann hátt, að hin upphaflega hugmynd hverfr að miklu leyti. Það, sem eftir er skilið, er ekki fagnaðarerindi það, sem Páll segir um að ekki sé annað til (Gal. 1,7).

Þessi skoðunarmáti nútíðarmannanna utan kristninnar og þeirra, sem innan kristninnar hnegjast í sömu áttina, bendir á sameiginlega uppsprettu. Og viljum vér nú leitast við að komast að því, hver sú uppspretta er.

Þeir segja, þessir nútíðarmenn — það er að segja þeir af þeim, sem trúa því, að siðferðislegt lögmál sé ráðanda í heimstilverunni —, að maðrinn verði að bœta úr því, sem hann hefir misgjört. Hafi einhver maðr gjört á hluta annars manns eða mannfélagsins, þá verði hann að bœta það að fullu, þó að það, ef til vill, kosti það, að hann verði að leggja allt líf sitt í sölurnar. Hafi hann með því leitt ógæfu yfir sjálfan sig og aðra, þá eigi hann ekki að skjóta sér undan afleiðingunum; hann eigi miklu fremr að t a k a u p p á s i g alla ógæfuna og allan sársaukann, leitast við að beina þessum afleiðingum burt frá öðrum og y f i r s i t t e i g i ð bak. Hann eigi að gjalda glópsku sinnar sjálfr. En einkum leggja þeir áherzlu á hugarfarið. Guð lítr á v i l j a n n, segja þeir, en ekki á máttinn. Aðalatriðið sé því, að viljinn afsegi hið illa og slíti sig frá því. Margir þeirra leggja því sérstaklega áherzlu á i ð r a n i n a. Benda þeir oft á hana, einkum ef henni er sár tilfinning samfara, svo sem það, er út af fyrir sig fái hreinsað manninn af allri synd.

Í þessu á þá friðþægingin að vera fólgin. Hún á að vera nokkuð, sem maðrinn gjörir sjálfr, eða að minnsta kosti nokkuð, sem kemr fram í manninum sjálfum.

Það er alveg satt, að hér ber á umleitunum siðferðisleg lífs. Og það getr meira að segja komið fyrir, að vantrúarmenn, sem persónulega l i f a samkvæmt þessu, hafi í siðferðislegu tilliti rétt gagnvart mönnum, sem kalla sig kristna. Því að margir eru þeir kristnir menn, sem nota sér hinn kristilega friðþægingarboðskap til þess að sleppa við að gjöra nokkuð sjálfir, láta

eigingirnina ráða yfir sér í breytninni við náungann og svæfa samvizku sína.

Og aldrei skyldum vér gleyma því, að spyrja sjálfa oss, hvort vér eigum nú ekki mikla sök í því, að margir þeirra, sem vér umgöngumst, bera svo lítið skyn á friðþæginguna.

Engu að síðr hljótum vér þó að segja, að þessi skoðan ristir ekki djúpt. Það er í alla staði rétt, að það er sjálfsögð og óhjákvæmileg siðferðisleg skylda hvers manns, að hann með öllu móti leitist við að bœta úr því, sem hann hefir misgjört, og beri fúslega þjáning þá, sem er afleiðing af breytni hans. Og eins er það líka sjálfsagt, að viljinn verðr algjörlega að segja skilið við allt það, sem illt er. Við þetta kannast líka kristnir menn hiklaust, enda standa þeir vafalaust við það í lífinu fullkomlega eins vel og nokkrir aðrir. En það útheimtist meira en þetta til þess að tala megi um friðþæging.

Hvers vegna skilja vantrúarmenn vorrar tíðar þetta ekki? Af því að þeir líta á hinar gömlu fornaldarhugmyndir manna um guð eins og barnalega hjátrú, sem nú geti ekki lengr staðizt. Eg vil ekki segja, að þeir algjörlega neiti guði guði. En guð er að eins hugsjón eftir þeirra skoðan. Eg vil ekki heldr segja, að þeir allir neiti því, að guð sé persónleg vera. En þeir standa að eins, að minnsta kosti í lífi sínu, í hugsjónarlegu sambandi við guð. Þetta er þannig að skilja: Þegar einhverjum manni til forna varð ljóst, að honum hefði yfirsézt, þá fann hann til guðs yfir sér alveg eins og hann fann til föður síns yfir sér; og sá faðir var vandlátr og kröfuharðr. Sama tilfinning kom á þeim tíma almennt fram hjá mönnum andspænis ö l l u m, sem yfir þeim stóðu. Ef einhver hafði drýgt lagabrot, þá fann hann til þess að hann hafði persónulega styggt yfirboðara sinn, dómarann, konunginn. Og á sama hátt fundu menn þá eðlilega út af yfirsjón sinni til guðs persónulega yfir sér. Þessi skoðan og þessi tilfinning hefir líka í öllu öllu verulegu haldizt óbreytt allt fram á vora daga. En nú í seinni tíð hefir á þessu orðið stórmikil breyting. Nú finna menn títt að eins til lögmálsins yfir sér. Það er ópersónuleg lögmálshugsjón, sem ræðr. Áðr löguðu menn líf sitt eftir g u ð s v i l j a, nú aftr á móti, á vorri tíð,

vilja menn laga það eftir hugmyndum sínum um hvað rétt sé, eða fyrirmyndum sinnar eigin hugsjónar.[1] (Meira).

## Skýrsla

yfir sunnudagsskólahald í söfnuðum kirkjufélagsins frá byrjun 2. ársfj. '93 til loka 1. ársfj. '94.

| SÖFNUDIR | Innrit. nemendr. | Fiest. | Fæst. | Meðaltal | Skóladagar. | Kennarar. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Winnipegsöfn.*.... | 311 | 175 | 98 | 147 | 52 | 20 |
| Brandonsöfn....... | | 28 | 9 | 18 | 46 | |
| Selkirksöfn....... | 51 | 32 | 9 | 17 | 31 | 2 |
| Brœðrasöfn........ | 60 | 51 | 14 | 38 | 47 | 5 |
| Garðarsöfn....... | 75 | 61 | 19 | | 30 | 4 |
| Víkrsöfn.......... | 51 | 40 | 11 | | 20 | 1 |
| þingvallasöfn..... | 66 | 55 | 5 | | 15 | 4 |
| Hallsonsöfn....... | | 37 | 18 | | 14 | |
| Vídalínssöfn...... | | 45 | 13 | | 24 | 3 |
| Pétrssöfn......... | | 32 | 12 | | 9 | 2 |
| Graftonsöfn....... | | | | 8 | 14 | 1 |
| St. Pálssöfn...... | 64 | | | 40 | 51 | 5 |
| Pembinasöfn...... | 38 | 31 | 10 | | 40 | 4 |

ATH. * Sunnudagsskólaskýrslan frá Winnipegsöfnuði nær yfir allt árið 1893. Skýrslur hinna safnaðanna ná frá kirkjuþingi 1893 til kirkjuþings 1894.

H. P.

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungr 1894.

9. lexía, sunnud. 2. Des.: Vitnisburðr Krists um Jóhannes: Lúk. 7, 24—35.
10. lexía, sunnud. 9. Des.: Kristr kennir í dœmisögum: Lúk. 8, 4—15.
11. lexía, sunnud. 16. Des.: Hinir tólf lærisveinar sendir út: Matt. 10, 5—16.
11. lexía, sunnud. 23. Des.: Friðarhöfðinginn: Esaj. 9, 2—7 (*jólalexía*).
13. lexía, sunnud. 30. Des.: Yfirlit („Jesús Kristr er í gær og í dag og að eilífu hinn sami" — Hebr. 13, 8).

1) Auðvitað held eg því ekki fram, að þetta eigi við alla einstaklinga. Hér er að eins um það að rœða, sem almennt einkennir kynslóð nútíðarinnar í samanburði við kynslóðir fyrri tíma. Að sjálfsögðu má einnig á vorum tíma hitta einstaka menn, sem lifa algjörlega persónulegu samlífi með guði öldungis eins og fólk áðr; og eins eru líka þeir menn til nú, sem tekið hafa upp nútíðarskoðanina án þess það hafi neitt raskað samlífi þeirra eins og barna með guði. En þessir síðar nefndu menn eru vafalaust enn sem komið er undr fáir. Og því er það, að eg hygg rétt sé að einkenna nútíðarkynslóðina eins og eg hefi hér gjört.

HÖFUNDRINN.

Vér sögðum í síðasta blaði *Sameiningarinnar*, að hinn nýi íslenzki söfnuðr í suðvestrhluta Winnipeg-bœjar, sem „Tjaldbúðarsöfnuðr“ er nefndr, hefði fest kaup í hinni niðrlögðu kirkju hins enska St. George-safnaðar. En rétt um það leyti, sem það blað kom út, urðu þau áformuðu kaup að engu, svo að Tjaldbúðarsöfnuðr er enn kirkjulaus. En óðar en hin umrœdda kirkja var gengin söfnuðinum úr greipum afréð hann, að reisa sér sjálfr nýja kirkju; er grind þess húss þegar komin upp, og verðr þessari kirkjusmíð að líkindum að mestu lokið áðr en næsta *Sam.*-nr. kemr út. Lóðin, sem kirkjan stendr á, er á horninu á Sargent og Furby-strætum, og hefir séra Hafsteinn Pétrsson gefið söfnuðinum lóðina. Kirkjan á að hafa sæti fyrir full þrjú hundruð manns.

---

Gjafir til bókasafns kirkjufélagsins, er eg hefi veitt móttöku: frá Friðrik Bjarnasyni $1.00, Lárusi Árnasyni $2.00, Árna Sveinssyni $3.00, Jóhannesi Jónassyni $1.00, séra Jónasi A. Sigurðssyni $5.00, Elis Þorvaldssyni $5.00.

Jón Bjarnason.

Úr kvittunarlistanum í síðasta blaði *Sam.* (gjöfum til skólasjóðs) hefir óvart fallið eitt nafn: *Sigfús S. Bergmann*, Garðar, með 50 centa tillagi.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., sendir út „Sameininguna“.

---

Hr. **Sigrbjörn Sigrjónsson** (164 Kate St.) hefir frá útgáfunefnd „Sameiningarinnar“ fengið umboð til að innkalla hinar útistandandi skuldir blaðsins, nema frá kaupendum í Dakota, þar sem séra **Friðrik J. Bergmann** er innköllunarmaðr. Féhirðir blaðsins er hr. Jón Blöndal, 545 William Ave.

---

**Séra Jónas A. Sigurðsson** hefir góðfúslega tekið að sér innheimtu á útistandandi skuldum *Sameiningarinnar* í söfnuðum sínum. Eru því allir kaupendr blaðsins á Akra, Hallson, Pembina, Grafton og Hensi vinsamlega beðnir að standa greiðlega í skilum við hann á öllu því, er þeir skulda blaðinu.

Fr. J. Bergmann.

---



---



---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.